Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, OKTÓBER 1892. Nr. 8.

## *SONNETTA.*

*Eptir síra Valdemar Briem.*

Hann flaug á burt sem fugl til betri stranda,
minn fagri engill, dauðans frosts er kenndi.
Eg eptir stend á strönd og huga sendi
á eptir hinum hjarta-blíða anda.

Hann brosti hjer svo blítt á dauðans ströndu,
hve brosir hann þá nú á dýrðarlandi
í helgra engla hópi lofsyngjandi!
Mitt blóm, mitt ljós, mitt gull er guðs í höndu.

Mitt blóm, það dó í fyrsta vetrarfrosti,
mitt fagra ljós var slökkt af dauðans gusti,
mitt dýra gull í grafardjúp eg missti.

Í Eden grær það blóm, er hýrt mjer brosti,
mitt bjarta ljós upp kveikir lífsins fursti,
og gullið mitt er geymt hjá Jesú Kristi.[1]

---

1) *Sonnetta* þessi er orkt eptir barn eitt ungt, er síra Jón heitinn Steingrímsson og kona hans misstu.

## *KENNINGIN UM EILÍFA FORDÆMING.*

Eptir *síra Lárus Halldórsson.*

-:-

Útskúfunarkenningin hefur nú um tíma verið á dagskrá í hinum tveimur kirkjulegu mánaðarritum, er út koma á íslenzku, „Sameiningunni“ og „Kirkjublaðinu“, og er því án efa einnig komin á dagskrá hjá fjölda-mörgum, er kaupa og lesa rit þessi. Ritstjóri „Kbl.“ lýsti yfir því í 6. tölubl. 1. árg., að deilugreinar um þetta efni mundu vart fá rúm í blaðinu.

En mjer finnst málefni þetta vera svo þýðingarmikið, að jeg treysti því, að ritstjórinn muni ekki loka „Kbl.“ fyrir aðsendum greinum um það, enda þótt í aðra átt fari en þá, sem haldið hefur verið fram í blaðinu.

Mjer virðist í því, sem um þetta alvarlega efni hefur verið ritað, vera *of mikið* talað um lærdóminn sjálfan, sem, eins og „Kbl.“ rjettilega tekur fram, er með öllu ofvaxinn mannlegum skilningi, en aptur á móti *of lítið* um uppsprettu lærdómsins, guðs opinberaða orð, og áhrif þau, sem það hlýtur að hafa á skoðun manna á guðs-orði, ef það er sjálfu sjer sundurþykkt í þessu atriði eða öðrum.

Af því að vitnað hefur verið til Ágsborgarjátningarinnar, en orð hennar munu vera öllum þorra alþýðu ókunn, vil jeg setja þau hjer eptir útleggingu lektors Sigurðar Melsteð:

„Enn fremur kennum vjer, að Kristur muni birtast við enda heims, til að „halda dóm, og muni uppvekja alla framliðna, gefa guðhræddum og útvöld-„um eilíft líf og ævarandi fögnuð, en fyrirdæma óguðlega og djöflana, svo „að þeir pínist eilíflega.“

Samkvæmt þessu hefur íslenzkri alþýðu hingað til verið kennt í barnalærdómsbókum, sálmabókum og öðrum guðsorðabókum. Og „Sam.“ vill, að hin íslenzka kirkja eins og allar aðrar kristnar kirkjudeildir beygi sig fyrir orðum frelsarans, er sýna oss djúp staðfest milli bústaðanna hinum megin, er enginn fær yfir komizt.

En „Kbl.“ vill láta spurninguna um hina eilífu útskúfun standa óleysta, og fylgir í því efni guðfræði hins danska biskups Martensens, getandi þess um leið, að fjölda-margir prestar á Íslandi líti eins á þetta mál, að „eilífa, óendanlega útskúfunin sje óleysanleg vandaspurning á voru jarðneska þekkingarstigi“.

En ætla það verði ekki fleiri spurningar í trúarbrögðunum,

sem hið sama megi segja um, ef vjer förum að beita eigin rannsókn einni saman við þær,og hættum að lúta hinu opinberaða guðsorði í ritningunni, eða förum að finna mótsagnir í guðs-orðinu, eins og Martensen biskup hefur þótzt finna í þessu efni?

Ritstjóri „Kbl." segir, að sjer rísi hugur við, „ef ágreiningur um þetta efni, sem vjer höfum svo harðla lítil skilyrði til að skilja og staðhæfa um, skyldi veikja vorn íslenzka, kristilega og kirkjulega fjelagsskap". En það eru svo mörg trúaratriði, sem eru þannig löguð; og dettur þó engum í hug, að gjöra svo breiðan grundvöll kirkjufjelagsskaparins, að hver kennimaður kirkjunnar megi hafna þeim trúaratriðum, er honum finnst hann ekki hafa nægileg skilyrði til að skilja. Mundi það ekki líka verða: „Burt með ákveðin trúaratriði"?

Vjer megum ekki leggja of mikla áherzlu á það, hvað vjer skiljum, og hvað vjer af þeirri ástæðu treystum oss til að staðhæfa; heldur liggur aðaláherzlan á hinu, hver sje skýlaus kenning ritningarinnar. Ef vjer höfum glöggt og greinilegt guðs-orð fyrir oss, þá höfum vjer ávallt nægilegt skilyrði til að staðhæfa; og fátt mun það vera í kristnum fræðum, er öllu skýlausari orð finnist um í nýja testamentinu, en um þennan lærdóm.

Annað mál var það, ef mótsögn er í sjálfu n. t. um þetta efni, þannig að sumstaðar sje kennd eilíf útskúfun, en á öðrum stöðum, að allir verði á endanum hólpnir.

þetta er það, sem Martensen heldur fram.

En kirkjufeður vorir, Lúter og Melanchton, sem án efa miklu fremur en Martensen höfðu sjerstaka guðlega köllun og nutu sjerstakrar guðlegrar aðstoðar til að rannsaka og þýða guðs orð, hafa einnig þekkt þá staði, sem hann vitnar til, og þó settu þeir skýlausa útskúfunarkenningu í játningarrit kirkjunnar.

Mjer virðist því þegar af þeirri ástæðu varhugavert, að samsinna þessum martensensku mótsögnum, og að breiða þær út á meðal alþýðu, eins og „Kbl." hefur gjört.

Vitaskuld er það, að sjeu mótsagnir í hinum helgu ritum um þetta eða önnur trúaratriði, þá er rjett, að alþýða manna fái að vita það. Afleiðingin verður blátt áfram sú, að það verður hætt að virða þessi rit sem óyggjandi guðs-orð, þau verða að eins skoðuð sem hvert annað mannlegt orð, og kristindómurinn að

eins sem eitt af hinum mörgu andlegu þroskastigum mannkynsins, eins og vantrúarmenn halda fram.

En á nú nokkur mótsögn eða mótsetning sjer stað í orðum ritningarinnar í því efni, sem hjer ræðir um?

„Til eru staðir í heilagri ritningu,“ segir Martensen, „sem kenna blátt áfram eilífa glötun, sje ekkert úr þeim dregið“. þessa staði þekkja allir; þeir eru margir, flestir orð frelsarans sjálfs, og svo ákveðnir og ótvíræðir, að ekki er unnt að skilja þá á annan hátt. Um þessa staði er því enginn ágreiningur. „Slíkir staðir benda skýlaust til óendanlegrar pínu.“

En svo eiga að vera „í hina áttina ýmsir ritningarstaðir, sem heldur ekki má draga úr,“ og tilfærir Mart. tvo af þessum stöðum, sjálfsagt þá, sem honum hafa fundizt ákveðnastir. þessir staðir eru: 1. Kor. 15, 22-28 og Ef. 1, 10. Jeg neita því ekki, að sjeu orð eins og að „guð sje allt í öllu“, „allir lífgist í Kristi,“ „allt skyldi komast undir eitt höfuð í Kristi“ tekin út úr sambandi því, er þau standa í, þá megi leggja í þau það, sem M. vill. Orðin eru, eins og hann segir, sögð „undantekningarlaust, skilyrðislaust“. En eigi að leggja í þau aðra merkingu, en þau eptir sambandinu geta haft, þá verður sambandið eðlilega bæði undantekning og skilyrði.

Auðvitað ætla jeg mjer ekki að fara út í neina ýtarlega biblíuþýðingu á þessum stöðum, heldur að eins með fæstum orðum taka fram það, sem mjer virðist benda á, að Páll postuli hafi ekki meint hið sama, sem Martensen leggur í orð hans.

Pall er í 1. Kor. 15 að tala um upprisu framliðinna í sambandi við Krists upprisu, og að því luta þessi orð í 21. og 22. v.: „þar eð dauðinn kom fyrir einn mann, kom og upprisa dauðra fyrir einn mann; því að eins og allir deyja í Adam, eins munu allir lífgast í Kristi.“ þetta er sagt um upprisu holdsins „undantekningarlaust, skilyrðislaust“. En vilji menn með Martensen fara að heimfæra orð þessi til hins andlega og eilífa lífs, þá kemur undantekningin og skilyrðið strax í næsta v. (23. o. s. frv.): „Kristur er frumgróðinn; þar næst munu þeir, er Kristi tilheyra, upprísa í hans tilkomu. þar eptir kemur endirinn, þegar hann selur guði og föður ríkið í hendur, þá hann er búinn að afmá allt veldi, herradæmi og makt; því honum ber að ríkja þangað til hann hefur lagt alla óvini undir sína fætur.“ Hjer er berlega

gjörður greinarmunur á þeim, sem Krists eru, og öðrum, sem ekki eru Krists, heldur verða að teljast með óvinum hans, er hann leggur undir fætur sína, þ. e.: afmáir þeirra veldi, herradæmi og makt, gjörir þá óskaðlega fyrir ríki sitt og sína útvöldu, erfingja ríkisins. Eða mun nokkrum detta í hug, að Páll hefði komizt svona að orði, ef hann hefði verið að kenna það, að allir mundu á endanum verða hólpnir? Öðruvísi kemst hann venjulega að orði um þá, er eiga að öðlast eilífa sælu, en að Kristur leggi þá eins og óvini undir fætur sjer.

Í Ef. 1. er sagt (v. 9. og 10.):... „hann opinberaði oss leyndarráð vilja síns eptir sinni velþóknun, er hann hafði áður ályktað með sjálfum sjer, um ráðstöfun á fyllingu tímans, að allt skyldi komast undir eitt höfuð í Kristi, o. s. frv."

Orðatiltækið „fylling tímans" er víst aldrei haft um annað, en um þann tíma, þá er Kristur kom í holdinu, og segir postulinn því hjer, að allt *sje komið* undir eitt höfuð í Kristi, því að (v. 20. og 21.) guð hafi uppvakið hann og „sett hann yfir allan höfðingjadóm og yfirráð, makt og herraveldi", o. s. frv. (Sbr. orð Krists sjálfs í Matt. 11, 27.: „Allt er mjer af mínum föður í vald gefið".) Þetta segir postulinn eins fyrir því, þó hann muni vel eptir því, að margir eru „fráhverfir lífi guðs" (Ef. 4, 18.) og „óvinir Krists kross;....en afdrif þeirra verður tortýning" (Fil. 3, 18. 19.). Þeir eru eigi að síður lagðir undir vald Krists, eins og allt annað á himni og jörðu. Kristur er í þessum skilningi „höfuðið" „undantekningarlaust, skilyrðislaust" (sbr. Fil. 2, 9.-11). En eigi að skilja þetta, „að komast undir eitt höfuð í Kristi", um sameining trúar og kærleika við hann, eins og limir á líkama hans, þá má fyrst segja: Það er tilgangurinn og öllum er gefinn kostur á því (sbr. „guð vill, að allir verði hólpnir og komist til þekkingar á sannleikanum," 1. Tim, 1. 4.), og í öðru lagi: þá er skilyrðið tekið fram í 13. v.: „þjer sem trúið," í 14. v.: „þá, sem hans eru," í 15. v.: „trú yðar á drottin Jesúm og elsku yðar til allra heilagra," í 19. v.: „mikilleiki hans máttar við oss, sem trúum fyrir kraft hans almættis".

Enn er einn staður hjá Páli, nl. Kól. 1, sem er mjög líkur Ef. 1. Þar stendur (v. 16): „allir hlutir eru skapaðir fyrir hann og til hans" og (v. 19., 20.): „það þóknaðist guði, að öll fylling skyldi búa í honum og að *koma öllu í sátt við sig fyrir hann,*

bæði því, sem er á jörðu og himni", o. s. frv. En svo kemur skilyrðið að því, er Kólossuborgarmenn snertir í 23. v.: „*Ef* þjer að eins standið *grundvallaðir og stöðugir í trúnni*, og latið ekki bifa yður frá von þess náðarlærdóms, sem þjer hafið numið og boðaður er sjerhverri skepnu undir himninum".

Samkvæmt þessu hljóta án efa einnig að skiljast orðin í 1. Kor. 15, 28.: „svo að guð sje allt í öllu".

Ekki er því að neita, að þessi orð „allt í öllu" eru harðla yfirgripsmikil og virðast jafnvel enn þá þýðingarhærri heldur en Ef. 4, 6. („yfir öllu, um allt og í öllu") eða Róm. 11, 36. („frá honum, fyrir hann og til hans eru allir hlutir"); hafa einnig án efa sjerstaka þýðingu, að því leyti sem þau eru töluð með sjerstöku tilliti til hins mikla endimarks allra ráðsályktuna guðs, sem er hinn eilífi, órannsakanlegi kærleikur. Sú hugmynd, að þessi kærleikur hins alvalda skapara verði „allt í öllu", spegli sig í hverri skapaðri veru og gagntaki hana með fullkomnum friði og fögnuði, er hið æðsta og inndælasta, er mannlagt hjarta getur hugsað sjer sem innihald eilífðarinnar, eins og líka óhætt er að segja, að einmitt þessi hafi hugsun drottins verið frá öndverðu.

En þrátt fyrir þetta megum vjer þó ekki leggja þá merking í þessi orð Páls, sem kemur í beina mótsögn við önnur orð hans bæði á þessum sama stað og víðar, þar sem hann með berum orðum gjörir ráð fyrir tortýning, glötun. Vjer verðum að fara með Pál eins og hvern annan rithöfund, að láta hann skýra sjálfan sig, og ef mögulegt er vera samkvæman sjálfum sjer. Og ef vjer jatum, að hann hafi skrifað guðs-orð, þá megum vjer ekki ætla, að hann geti komizt í mótsögn bæði við sjálfan sig annað skýlaust guðs-orð. Ritningin verður að þýða sjálfa sig.

Eptir þessari reglu verða orðin: að „sjálfur sonurinn muni leggja sig undir þess veldi, er áður hafði lagt allt undir hans vald, svo að guð sje allt í öllu" að skiljast að eins sem endurtekning og útlistun þess, sem á undan er sagt um það, þegar Kristur að afloknu sínu heimsfrelsandi og heimsdæmandi starfi, „selur guði og föður ríkið í hendur, þá er hann er búinn að afmá allt veldi, herradæmi og makt," og „leggja alla óvini undir sína fætur".

Og þó oss gangi illa að hugsa oss endimark tilverunnar og

innihald eilífðarinnar að eins sem fullkominn skilnað milli góðs og ills, milli ljóss og myrkurs, og oss mundi falla betur í geð að mega trúa því, að allar illar verur verði á endanum góðar, og allt myrkur dreifist fyrir dýrðargeislum guðs heilagleika og kærleika, þá verðum vjer að beygja oss í auðmýkt fyrir guðs eigin heilaga orði, en ekki fara eptir vorum hugsunum og tilfinningum.

Eitt er víst og áreiðanlegt, að „guð vill ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sjer og lifi," að hann hefur sent „einkason sinn til að kalla til sinnar kvöldmáltíðar alla — alla," og að „engin fyrirdæming er yfir þeim, sem eru í Kristó Jesú". Látum þá hin geigvænlegu orð hans um fyrirdæmingu og glötun þeirra, sem ekki trúa á hann, fylla oss heilagri alvöru og áhuga á að lifa sjálfir í sameiningu trúar og kærleika við hann, og leiða alla, sem vjer getum til þessa sama lífs. Keppumst við að höndla hnossið og komast gegnum hið þröngva hlið, og sleppum ekki frelsaranum fyr en hann blessar oss með fullri blessun síns guðlega kærleika.

Og þegar vjer svo hugsum um hin síðustu afdrif þeirra, sem „ekki trúa sannleikanum, heldur hlýðnast ranglætinu," og oss kann að verða að spyrja með skáldinu:

Hvort dregur hann þá ei að landi seinna?
Hvað megnar ei hins almáttuga kraptur?—,

þá hugfestum, að það er eitt, sem kraptur hins almáttuga megnar ekki: að fyrirgefa þeim, sem ekki finnur þörf á fyrirgefningu, náða þann, sem enga náð vill þiggja, frelsa þann, sem ekki vill frelsast láta. — Aðrir verða ekki fyrirdæmdir heldur en þeir, sem ekki vilja safnast undir vængi hinnar eilífu miskunnar.

Hann er óneitanlega hræðilegur, þessi lærdómur um eilífa útskúfun. En er ekki líka hræðilegt vald myrkranna, sem maðurinn getur ofurselt sig, ekki einungis með lastafullu líferni, heldur engu síður og umfram allt með því, sem er synd allra synda, að hafna náðinni í Jesú Kristi, gjöra guð að lygara með að trúa ekki þeim vitnisburði, sem guð hefur vitnað um sinn son (1. Jóh 5.-10.)?

Eins og Martensen tekur fram, og jeg að nokkru leyti hef áður vikið að, þá er erfitt að hugsa sjer þessa eilífu útskúfun, þegar maður festir hugann við guðs föðurkærleika, og það er

sjálfsagt, sem Mynster segir, að „ef það væri mögulegt, að hinn tortýndi gæti með sannri iðrun sent úr djúpi glötunarinnar andvörp sundurkramins og trúaðs hjarta til hinnar óendanlegu miskunnsemi, þá mundi hinn almiskunnsami heyra þau“.—„En er það mögulegt?“ heldur hann áfram. „Getur sá fundið þaðan veg til apturhvarfs og trúar, sem hjer í lífi hefur hafnað sjerhverri áminningu guðlegrar miskunnar, og hvorki hefur látið vekjast af velgjörðum guðs nje hegningum hans, heldur hert hjarta sitt í synd og hatri og þrjózku?“ Jeg sje engu „vonarljósi“ bregða upp í þessum spurningum Mynsters, og jeg skil áminninguna, sem hann segir að hljómi einnig úr undirdjúpunum til vor: „sakfellið eigi, svo þjer verðið ekki sakfelldir“, alveg gagnstætt því, sem „Kbl.“ virðist skilja hana, enda bætir Mynster við: „sjerhver efli sáluhjálp sína með ótta og andvara“ (Fil. 2, 12) og „í dag meðan þjer heyrið rödd guðs, þá herðið ekki hjörtu yðar“ (Heb. 3, 7-8). Og í niðurlagsbæninni talar hann um „veldi myrkranna, er sitja um hina ístöðulitlu og svæfa þá með sætum söngvum, til þess þeir skuli vakna í skelfingu“ og biður síðan: „Ó, guð vor, lát sálina vakna fyr en það er orðið um seinan“. Mynster stendur alveg á grundvelli hinnar lútersku kirkju, eins og hann er tekinn fram í Ágsborgarjátningu.

Martensen þar á móti víkur frá þessum grundvelli með sinni mótsagna- og mögulegleika-kenningu. En þó útlistun hans sje snilldarleg og fögur orð hans um kærleiksráðsályktun guðs og hinn kristilega kærleika, sem vonar allt, og þó hún sje mjög svo heillandi fyrir mannlegt hjarta „hin ljósa von á almættiskærleika guðs“, vonin um „að ljósið muni á endanum skína jafnvel inn í hin yztu myrkur“, þá verð jeg með hin ströngu og skýlausu orð frelsarans í huga, að skoða allar slíkar raddir að eins sem fagran hafgígjusöng, sem rjettast sje að byrgja eyrun fyrir.—Hann var sjálfur hin fullkomna opinberun guðs almættiskærleika, en hefur þó ekki gefið neina slíka von. Þess vegna, svo lengi sem þessi fagra von verður ekki samrímd við orð hans, og þau ekki skilin öðruvísi en öll hin kristna kirkja hefur skilið þau, ætla jeg að það sje viðurhlutamikið, að ala hana í brjósti sínu, og enn viðurhlutameira fyrir kennendur guðs orðs að glæða hana hjá alþýðu manna.

Martensen viðurkennir að vísu mögulegleik eilífrar út-

skúfunar, en að eins sem aðra hliðina á óleysanlegri, hugsunarlegri og biflíulegri mótsögn. „Kbl." virðist álíta þetta nóg; en ekki skil jeg, að það geti verið góður grundvöllur fyrir kirkjuna að standa á.

„Enginn getur lagt annan grundvöll en þann, sem lagður er," og kennendur guðs-orðs eiga að vera fastheldnir við hinn áreiðanlega lærdóm eins og hann hefur kenndur verið (Tít. 1, 9.). En hafi nokkur lærdómur verið kenndur í fyrstu kristni og sje enn kenndur sem áreiðanlegur í ritum hinna fyrstu votta Jesú, þá er það þessi: að hver, sem trúir á guðs engetinn son, hefur eilíft líf, glatast ekki, dæmist ekki, en hver sem ekki trúir, sá er nú þegar dæmdur, því hann trúði ekki á nafn guðs eingetins sonar (Jóh. 3, 16.-18.).

Kollaleiru 24. júlí 1892.

## *RÖNG AÐFERÐ TIL AÐ SAFNA FJE Í KIRKJULEGAR ÞARFIR.*

Eitt af málum þeim, er rædd voru býsna ýtarlega á síðasta kirkjuþingi voru, var um það, hver meðul til fjárafla í safnaðarþarfir ætti að forðast. Það mál hefur meiri þýðing fyrir safnaðarstarfsemina almennt he'dur en flestir gjöra sjer í hugarlund, og þess vegna viljum vjer fara nokkrum orðum um það einmitt nú, þegar sá tími ársins fer í hönd, að mestöllu því fje er safnað, sem árlega útheimtist til allra hinna sjálfsögðu útgjalda safnaðanna.

Þar sem kirkjan er ríkiskirkja eins og á fósturjörð vorri, eru söfnuðirnir lausir við þær áhyggjur, sem eru því samfara að safna fje árlega til að bera safnaðarstarfsemina áfram. Þar sem kirkjan og ríkið er algjörlega að skilið eins og hjer í landinu, verða kristnir menn að bera öll þau útgjöld, sem kirkjunni ætíð hljóta að vera samfara. Þar ákveða þeir sjálfir, hversu mikið þeir vilja leggja í sölurnar fyrir málefni kristindómsins. Þar er ekkert æðra vald, sem leggur svo og svo mikinn skatt á hvern einstakan meðlim kirkjunnar, er heimtur sje inn á lagalegan hátt eins og hver önnur útgjöld í opinberar þarfir; heldur ákveða þeir menn það sjálfir, sem mynda kirkjulegan fjelagsskap

sín á milli, hve mikið þeir vilja leggja í sölurnar, til þess guðsorð sje prjedikað meðal þeirra og náðarmeðulunum útbýtt á þann hátt, sem boðinn er í guðs-orði. Í fljótu bragði virðist það æðimikið handhægra, þegar hið opinbera, ríkið, landsstjórnin, ber alla ábyrgð af viðhaldi kirkjunnar og innheimtu útgjalda þeirra, er í kirkjulegar þarfir ganga. En þegar betur er athugað, er það næsta auðvelt fyrir hvern skynsaman mann að sjá, hve miklu heppilegra það er frá kirkjulegu sjónarmiði, að það sje algjörlega á valdi hvers eins, hvort hann vill leggja nokkuð af mörkum í kirkjulegar þarfir eða ekki neitt, og um leið, hve mikið hver kirkjulega sinnaður maður greiðir af hendi. Allur kirkjulegur fjelagsskapur byggist á sameiginlegri trú. Það er trúin á frelsis-sannindi kristindómsins, sem einn gefur manninum rjett og um leið skyldu til að tilheyra kristnum söfnuði. Sú trú skapast ekki fyrir neitt ytra valdboð. Hún myndast ekki í nokkru hjarta fyrir það, þótt hinir voldugu láti það boð út ganga, að hjer eptir skuli þegnar einhvers ríkis tilheyra einhverri ákveðinni kirkjudeild, eða þótt gefið sje tilkynna með konunglegri auglýsing, að einhver viss tiltekin trúarbrögð skuli vera hin opinberu trúarbrögð í landinu, og allir þegnarnir hljóti þess vegna að greiða árlega tíund af efnum sínum til viðhalds þeirri kirkju. Þar sem svo er ástatt, tilheyrir hvert mannsbarn þjóðarinnar, sem ekki segir sig opinberlega úr lögum við kristna menn, hinum kristna söfnuði. Að yfirborðinu til er það undur fagurt þannig að mega benda á heila þjóð, þar sem svo að segja hvert mannsbarn heyrir kirkjunni til, en aptur svo undur raunalegt að virða fyrir sjer aðskilnaðinn, er fram kemur hvervetna, þar sem kirkjan og ríkið er hvort öðru óháð; þar eru margir, sem ekki heyra til neinum kristnum söfnuði við hlið hinna, sem opinberlega játa trú sína og daglega leggja meira og minna í sölurnar fyrir trúarsannfæring sína. En þessu er einungis þannig varið að yfirborðinu. Þegar verið er að tala um heila þjóð, sem sje kristin, hlýtur maður einlægt að ganga út frá því í huga sínum, að þar sjeu svo og svo margir kristnir að eins að nafninu til. Og það er þó vissulega raunalegra en allt annað. Þar sem allir tilheyra kirkjunni, fæðast inn í hana og vita ekkert, hvað það hefur að þýða að standa fyrir utan hana, verður tilfinningin svo sljóg fyrir safnaðarskyldum kristins manns.

Safnaðarhugmyndinni er þar svo hætt við að deyja út, því enginn finnur til þess, að hann verði neitt sjerstakt á sig að leggja eða að því fylgi nokkrar sjerstakar skyldur að tilheyra kristnum söfnuði. Margar af þessum skyldum birtast manni þá sem skattar og tíundir, er hegning laganna knýr einstaklinginn til að greiða af hendi. — Þar sem ríkið og kirkjan er aðskilið, hefur hin opinbera landstjórn engin minnstu afskipti af kirkjumálunum. Kristnir menn mynda þar safnaðarfjelagsskap af eigin hvöt; þeir, sem ekki vilja vera kristnir, koma þar hvergi nærri. Af frjálsum vilja, án þess að vera til þess knúður af nokkru utan að komandi valdboði, leggur þá hver einstakur safnaðarlimur það fram af efnum sínum, er honum þóknast, og fer þá upphæðin ekki síður eptir göfuglyndi hjartans og þeim mæli trúarinnar, er hann hefur hlotið, en eptir efnalegum ástæðum hvers eins. Menn finna þá til þess, að þeir eru að leggja eitthvað í sölurnar fyrir hið góða málefni,—eru að verja einhverju af eigum þeim, sem guð hefur gefið þeim til að efla og útbreiða ríki hans á jörðunni. Safnaðarhugmyndin og safnaðarskyldurnar verða mönnum þannig margfalt ljósari þar sem fullkominn aðskilnaður á sjer stað milli ríkis og kirkju, en þar sem allt fje í kirkjulegar þarfir er lagalegt skyldugjald.

En svo verða þá söfnuðirnir að koma sjer saman um heppilegustu aðferðina til að heimta saman nægilegt fje á ári hverju. Bezta aðferðin og eðlilegasta er sú, að láta gjöldin frá hverjum einstökum safnaðarlim vera bein gjöld í sjóð safnaðarins. Þegar söfnuðirnir halda ársfundi sína, gjöra þeir yfirlit yfir öll væntanleg útgjöld á komandi ári. Og svo lofar hver safnaðarlimur af frjálsum vilja að greiða af hendi einhverja tiltekna upphæð. Þegar söfnuðurinn þarf á fje að halda, eru svo þau loforð heimt inn í safnaðarsjóðinn. Þá veit hver safnaðarlimur, hvað hann er að gjöra. Með tímanum segir reynslan honum, hve hátt safnaðargjald hans þarf að vera. Hann er ekki einlægt að spyrja sjálfan sig, hve mikið hann ætti að greiða af hendi í hlutfalli við aðra safnaðarlimi. Hann er ekki einlægt að deila upphæð þeirri, er söfnuðurinn á að gjalda, með safnaðarlima-tölunni, því hann veit, að ástæður manna í efnalegu tilliti eru mjög svo ólíkar og að hjartalagið er einnig næsta misjafnt. Enginn slíkur metningur á að eiga sjer stað. Hver einstakur safnaðarlimur

verður að hugsa með sjer: það er skylda mín að taka eins mikinn þátt í gjöldum safnaðarins og mjer er unnt og jeg sje að þörf gjörist. Fyrir sumum kristnum mönnum virðist það vaka býsna sterklega, að allir meðlimir eins safnaðar ættu að greiða nokkurnveginn jafnt eptir efnalegum hlutföllum. Svo mundi það líka verða, ef öllum væri jafn-annt um málefni safnaðarins, — með öðrum orðum, ef trúin væri jafn-sterk í hjörtum allra. En því er nú ekki þannig varið í nokkrum kristnum söfnuði. Og þess vegna er það ekki unnt, að þessi jöfnuður í útgjaldalegu tilliti geti átt sjer stað. Hinn fátækari greiðir opt meira af hendi en hinn ríkari bróðir hans. Hvers vegna? Af því trú hans er þá meiri og hjartað örlátara. Eins ber það við í kristnum söfnuðum, að hinir fátækari, sem þó eru vel sjálfbjarga, vilja láta öll gjöldin hvíla á fáeinum efnuðum mönnum, sem tilheyra söfnuðinum og ætíð eru fúsir til að gefa höfðinglega til lúkningar öllum nauðsynlegum safnaðargjöldum. Slíkt er auðvitað rangt og má ekki eiga sjer stað. Enginn á að reyna að komast hjá að bera byrðina, sem eitthvað er fær um að bera af henni.

En eitt verða þeir að hafa hugfast, sem bera mest af safnaðarbyrðinni, og það er þetta: Í hverjum einasta kristnum söfnuði hljóta einhverjir að leggja meira á sig en aðrir; einhverjir vissir menn hljóta í öllum frjálsum kristnum söfnuðum að bera meira en tiltölulegan skerf af gjöldum safnaðarins. Þeir eiga ekki að gjöra það með harmkvælum, heldur af fúsum vilja. Það er drottinn sjálfur, sem heimtar það af þeim. Að sönnu mega þeir vinna að því, að hluttaka safnaðarlimanna í gjöldunum verði sem almennust. En það verður bezt með því móti, að trúin verði sem almennust í hjörtunum. En það er um fram allt prjedikun guðsorðs, sem kemur því til leiðar, og um leið það eptirdæmi, sem hinir trúuðu í söfnuðinum gefa daglega með breytni sinni. Það, að bera mestar byrðarnar í einum söfnuði, á að skoðast sem einkarjettindi frá drottni.

Menn hafa verið að finna upp á ýmsum öðrum meðulum en þessari beinu gjalda-aðferð til að heimta saman fje til safnaðarþarfa. Söfnuðirnir eru að halda ýmsar arðberandi samkomur til að afla sjer fjár. Þegar samkomur þessar fara vel fram og hafa eitthvert andlegt innihald, sem að einhverju leyti er skylt því verki, er söfnuðurinn hefur tekið að sjer að vinna, en öllu

því haldið í fjarlægð, sem ekki er í samræmi við hið háleita og heilaga starf kirkjunnar, mælir í rauninni margt með því, að slíkar samkomur sjeu hafðar innan safnaðanna. Síðan hin kirkjulega starfsemi vor hófst hjer, hefur fjárþörf safnaðanna orðið tilefni til þess, að býsna margir fyrirlestrar hafa verið fluttir, sem annars mundu að öllum líkindum ekki hafa verið samdir, og töluvert fje hefur komið inn í þarfir safnaðanna á þennan hátt. En það, sem vjer vildum hafa tekið fram í þessu sambandi, er þetta, að söfnuðirnir mega aldrei byggja mjög mikið á þessháttar tekjum. Að ætla sjer að heimta inn svo eða svo mikið upp í árleg gjöld safnaðarins með arðberandi samkomum er mjög svo óheppilegt. Menn verða þreyttir af þeim, ef þær eru mjög tíðar, en eru þá orðnir afvanir þeirri aðferðinni, sem ætíð verður lang-bezt og heilladrjúgust, að fara ofan í vasa sinn og gjalda umsvifalaust og með glöðu geði það, sem til þarf í hvert skipti. Arðinum af slíkum samkomum ætti aldrei að vera varið til lúkningar hinum árlegu og fastákveðnu gjöldum safnaðarins, heldur til annara útgjalda, sem fyrir kunna að koma, eða þá í þarfir kirkjufjelagsins.

Hlutaveltur eða tombólur til arðs fyrir söfnuðina eru mjög óheppilegt gjaldheimtumeðal. Þær eru allt of skyldar fjárhættuspilunum, sem hvervetna meðal kristinna manna eru álitin mjög svo siðspillandi. Þar er alls ekkert andlegt innihald, og áhrifin, sem slíkar samkomur hafa, draga fremur siðferðislega meðvitund manna niður en þær lypti henni upp. Lögin í Bandaríkjunum banna öll fjárhættuspil, hverju nafni sem þau kunna að nefnast, og ætti það eitt að vera nóg til þess að söfnuðirnir forðuðust slíkt. Það eru ótal fleiri tegundir af arðberandi samkomum, sem menn hafa fundið upp til að heimta saman fje í kirkjulegar þarfir, svo sem matarveizlur, sjónleikir og jafnvel danzsamkomur. Vjer getum í sannleika margt lært af hinni ötulu starfsemi innlendra safnaða og kirkjufjelaga, sem er mjög svo heiðarlegt og lofsvert; en annað eins og þetta skulum vjer vandlega forðast að taka eptir. Því sú fjárheimta í kirkjulegar þarfir, sem gjörð er á jafnógöfugan og guðs-orði ósamboðinn hátt, er fremur sönnu, kristilegu safnaðarlífi til niðurdreps en til eflingar.

Vjer ætlum engar reglur að gefa umfram bendingar þær, sem gefnar voru á síðasta kirkjuþingi voru. Kristileg meðvit-

und safnaðanna sjálfra verður að segja þeim, hverja aðferðina þeir mega við hafa. En þetta biðjum vjer alla að hafa hugfast, að beina gjaldheimtan er sú lang-bezta og henni ætti hvervetna að vera framfylgt. Og að því er samkomurnar snertir, þá verða söfnuðirnir að vanda til þeirra eins og bezt eru föng til, og forðast allt það, er verða megi safnaðarlífinu til hnekkis og hinu kristna nafni til vansæmdar.

---

## *„ÁRINU FYRR EN ELLA!“*

Síra þórhallur Bjarnarson, ritstjóri „Kirkjublaðsins“, ritar 8. sept.: „Hjeraðsfundur vor (Kjalarnessþings) stendur til núna á mánudaginn. Jeg hreyfi þar skólamálinu ykkar, til þess að fá þar einhverjar verklegar framkvæmdir, ef unnt er. Nokkuð víða að hef jeg fengið vitneskju um, að samskot sjeu byrjuð eða „í ráði“ til skólans; dálítið kemur inn, aldrei fer það svo; við ættum hjer heima að geta lagt það til, að skólinn gæti byrjað árinu fyrr en ella.“ — það er vel sagt, og ætti þessi áhugi, sem kemur fram þar heima, að verða hin mesta hvöt fyrir fólk safnaða vorra og alla þá, sem alvarlega hugsa um menning og andlega framför Íslendinga hjer í landinu, að láta fjársöfnuninni í skólasjóð miða eins mikið áfram og unnt er á þessu ári. Drottinn hefur gefið bændum hjer góða meðaluppskeru, og í bæjunum hefur vinnan verið yfirfljótanleg. Vjer erum þegar nokkuð á veg komnir, þótt að eins sjeu tvö ár síðan farið var að byrja. En það er langt í land enn. „Öll byrjun er erfið“ segir þýzkur málsháttur, en úr því hún hefur nú tekizt eptir öllum vonum, verðum vjer að sýna, að vjer einnig kunnum að halda áfram. Flestir af vinum skólahugmyndarinnar eru nú komnir svo langt, að þeir trúa því statt og stöðugt, að fyrirtækið muni með drottins hjálp á sínum tíma ná fram að ganga. En þá er nú að sýna þá trú í verkinu. Bræður vorir heima eru að hlynna að málefninu með ráð og dáð. það sæti þá illa á oss sjálfum að liggja á liði voru. Áfram í trausti til drottins um sigur!

---

Grein sú, sem birtist í þessu nr.i „Sam.“ um útskúfunarkenninguna eptir síra Lárus Halldórsson, var upphaflega send

ritstjóra „Kirkjublaðsins", en með þeim ummælum, að hún skyldi verða send „Sameiningunni", svo framarlega sem hún yrði ekki tekin upp í „Kbl". Síra þórhallur Bjarnarson sendi hana svo hingað vestur, þar sem hann fann ekki ástæðu til að láta hana birtast í „Kbl".; hann kveðst hafa fengið margar greinir sama efnis, en þetta sje sú efnismesta þeirra allra. Samt vildi hann ekki taka hana í blað sitt, af því hún hefði komið svo seint.

„Sam." þakkar síra Lárusi fyrir ritgjörðina, og henni er það sjerstök ánægja að flytja lesendum sínum hana. Hún er fyrir margra hluta sakir mjög svo merkileg. það er nú á annað ár síðan umræðurnar um þetta efni hófust, og allan þann tíma hefur enginn af guðfræðingunum á Íslandi tekið í strenginn með „Sam." til að verja kenning kirkjunnar og biblíunnar fyrr en nú síra Lárus. Vjer efumst ekki um, að ýmsum hafi komið til hugar að draga af þessu þá ályktun, að ísl. kirkjan væri í heild sinni horfin frá hinni opinberu trúarjátnig sinni í þessu efni og farin að flytja nýja kenning, sem aldrei hefur komið fram í nokkurri ísl. guðsorðabók fram á þennan dag. það lá svo undur nærri að draga slíka ályktun. Og þó erum vjer þess fullvissir, að hún væri röng. það eru enn, guði sje lof, margir ísl. prestar, sem trúa orðum frelsarans í þessu atriði og halda sjer trúlega við kenning kirkjunnar. það er sannfæring vor, að þeir sjeu jafnvel miklu fleiri en hinir. En hvers vegna taka þeir þá ekki til máls? Hvers vegna gefa þeir með þögn sinni nokkrum manni ástæðu til að ætla, að nýja kenningin, sem svo ljóslega hefur verið sýnt fram á, að ekki væri guðs orði samkvæm, sje orðin algjörlega ofan á í ísl. kirkjunni og í þann veginn að útrýma hinni? Síra Lárus hefur þess vegna gjört vel og heiðarlega. Vjer erum sannfærðir um, að mjög margir af ísl. prestunum verða honum stórlega þakklátir. það er eðlilegt þeir óski þess, að hann hefði ekki verið neyddur til að flýja hingað vestur með ritgjörð sína, en að eina kirkjulega málgagnið í landinu hefði staðið honum opið. Frá þeirra og voru sjónarmiði er það vissulega raunalegt, að í „Kbl." skuli engin raust hafa fengið að láta til sín heyra til að mótmæla þeirri stefnu, er þar hefur verið haldið fram.

---

INNKÖLLUNARMENN „SAM.":

Í Winnipeg og Selkirk *Páll S. Bardal.*
Í Argyle síra *Hafsteinn Pjetursson.*

Í Dakota, síra *Friðrik J. Bergmann.*
Í Minnesota síra *N. Stgr. Þorláksson.*
Í þingvallanýlendu *Björn Skagfjörð.*

---

þeir af kaupendum blaðsins, sem búa í fjarlægð við þessar aðalstöðvar, gjöri svo vel að senda andvirði þess til herra Magnúsar Pálssonar, Box 368, Winnipeg, Man., og verða menn þá ætíð að gæta þess, að senda peningana í *registeruðu* brjefi.

þegar einhver kaupandi skiptir um bústaði, eða fær ekki blað sitt, er hann beðinn tafarlaust að snúa sjer til herra Jons Blöndals, 588, 4th Ave. N., Winnipeg.

---

Nú er sá tími ársins kominn, að allir borga blöð sín. „Sam.“ vonast þess vegna eptir, að allir þeir hinir mörgu, sem skulda henni, gjöri nú svo vel, að gjalda greiðlega til innköllunarmannanna allt það, sem þeir eiga ógoldið af andvirði blaðsins. Upphæðirnar eru smáar, ekki nema faein cent í hverjum stað. Kaupendurna munar ekkert um að lata þau cent af mörkum, en blaðfyrirtæki vort, sem nú um þessar mundir á við svo marga örðugleika að stríða, munar það svo miklu, að gjaldist ekki þessar mörgu smá-upphæðir, fær það ekki haldızt við. Nú er tíminn til að borga; munið það!

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétsson, N. Stgr. Þorláksson, M. Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.